# Íslendingadagurinn



## 1930

FERTUGASTA OG FYRSTA ÞJÓÐHÁTÍÐ
VESTUR-ÍSLENDINGA

# FJALLKONAN



PHOTO BY CHARACH, WINNIPEG

FRÚ INGIRÍÐUR JÓNSSON

# Íslendingadagurinn

Fertugasta og fyrsta Þjóðhátíð
Vestur-Íslendinga



Haldinn í Olympic Rink, Winnipeg
Fimtudaginn 26. júní, 1930

# Verðlaunaskrá

*Íslendingadagsins* 1930.

*Formaður Íþróttanefndarinnar: B. Ólafsson.*
*Íþróttir aðeins fyrir Íslendinga.*
*Hver íþrótt því aðeins þreytt, að fjórir eða fleiri keppinautar séu.*

# Íslendingadagurinn

Ástæðan fyrir því að Íslendingadagurinn er haldinn 26. júní í ár, í stað annars ágústs, er, eins og áður hefir verið skýrt frá, sú, að Íslendingar heima á ættjörðinni minnast á þessu sumri þúsund ára afmælis Alþingis síns. Er það svo mikils verður viðburður í sögu íslenzku þjóðarinnar, að jafnvel þeir Íslendingar, sem fjarri búa ættjörðinni, geta ekki látið það tækifæri svo hjá líða, að minnast þess ekki. Og þess vegna er þessi hátíð nú haldin hér í dag. Á sama tíma og vér höldum hinn árlega þjóðminningardag, minnumst vér því í þetta sinn þúsund ára afmælis Alþingis, eins mesta menningar og frama sporsins, er íslenzk þjóð hefir stigið. Afmælishátíð þessi hefst þennan sama dag heima á ættjörðinni, vegna þess að á þeim degi var fyrsta alþingi þjóðarinnar sett, fimtudaginn í 10 viku sumars árið 930, sem nú ber upp á 26 júní.

Forstöðunefnd þessarar hátíðar þótti það þess vert, að draga hér athygli að þessu og býður að því búnu alla gesti dagsins innilega velkomna.



*VERÐLAUNASKRÁ.*

---

1.—Stúlkur 6 til 8 ára, 50 yards

1. verðlaun, vörur .................................. .75
2. verðlaun, vörur .................................. .50
3. verðlaun, vörur .................................. .25

*VERÐLAUNASKRÁ.*

2.—Drengir 6 til 8 ára, 50 yards

| | |
|---|---|
| 1. verðlaun, vörur | .75 |
| 2. verðlaun, vörur | .50 |
| 3. verðlaun, vörur | .25 |

*VERÐLAUNASKRÁ.*

---

3.—Stúlkur 8 til 10 ára, 50 yards

| | | |
|---|---|---|
| 1. | verðlaun, vörur | $1.00 |
| 2. | verðlaun, vörur | .75 |
| 3. | verðlaun, vörur | .50 |

*VERÐLAUNASKRÁ.*

4.—Drengir 8 til 10 ára, 50 yards

1. verðlaun, vörur ..... $1.00
2. verðlaun, vörur ..... .75
3. verðlaun, vörur ..... .50

*VERÐLAUNASKRÁ.*

5.—Stúlkur 10 til 12 ára, 50 yards

1. verðlaun, vörur ............................. $1.00
2. verðlaun, vörur ............................. .75
3. verðlaun, vörur ............................. .50

*VERÐLAUNASKRÁ.*

---

6.—Drengir 10 til 12 ára, 50 yards

1. verðlaun, vörur ........................................ $1.00
2. verðlaun, vörur ........................................ .75
3. verðlaun, vörur ........................................ .50

*VERÐLAUNASKRÁ.*

7.—Stúlkur 12 til 14 ára, 50 yards

1. verðlaun, vörur ................................ $1.25
2. verðlaun, vörur ................................ 1.00
3. verðlaun, vörur ................................ .75

# Hið Sameinaða Kirkjufélag Íslendinga

flytur íslenzkum mönnum í Vesturheimi kveðju sína á þessum heiðursdegi íslenzkrar þjóðar, er minst er þúsund ára tilveru merkustu stofnunar hennar. Allir söfnuðir og meðlimir Kirkjufélagsins sameinast í einlægri ósk um að þessi dagur verði upphaf nýs tímabils vaxtar og andlegs þroska þjóðarinnar, hvoru megin sem börn hennar dvelja við djúpa Íslandsála.



*Meira víðsýni og sterkari trú* sé kjörorð vor allra frá þessari stundu!

*VERÐLAUNASKRÁ.*

---

8.—Drengir 12 til 14 ára, 50 yards

1. verðlaun, vörur ....................$1.25
2. verðlaun, vörur .................... 1.00
3. verðlaun, vörur .................... .75

# Jóns Bjarnasonar skóli

er eina æðri mentastofnunin sem Íslendingar í Vesturheimi hafa stofnað.

Skólinn hefir starfað í 17 ár og unnið þjóð sinni og landi gagn.

Fyrir það, sem hann hefir starfað, fyrir það, sem hann er, og fyrir það, sem hann vill vera, ættu allir Íslendingar að unna honum.

Skólinn á heimili að 652 Home St. í Winnipeg. Þar á hann næst stærsta bókasafnið íslenzka í Ameríku.

Skrifið eftir fræðslu um skólann.

*Rúnólfur Marteinsson,*
skólastjóri.



# DAGSKRÁ



*Hátíðin hefst kl. 2.15 e. h.*

1. Karlakór Íslendinga í Winnipeg syngur: Faðir andanna.
2. Andlegt ávarp: Séra B. B. Jónsson, D.D.
3. Ó, blessa guð, vort feðrafrón—Karlakór.
4. Andlegt ávarp: séra Benj. Kristjánsson.
5. Ó, Guð vors lands: Karlakór og allir.
6. Ó, Canada—Allir.
7. Ávarp forseta: séra Rúnólfur Marteinsson.
8. Grímur Geitskór segir frá vali Þingvallar. — Benedikt Ólafsson.
9. Úlfljótur segir frá grundvallarlögum Alþingis—Guðm. Stefánsson.
10. Öxar við ána—Karlakór.
11. Ræða: Séra Kristinn K. Ólafsson.
12. Kvæði eftir Pál Bjarnason í Wynyard, lesið af Dr. A. Blöndal og síðan sungið af öllum.
13. Kveðjur frá tignum gestum.
14. Ræða á ensku: J. T. Thorson, þingm.
15. Kvæði: Minning Alþingis, eftir Þorskabít, lesið af Dr. M. B. Halldórsson.
16. Ræða: séra Jóhann P. Sólmundsson.
17. Ávarp Fjallkonunnar: Frú Ingiríður Jónsson.
18. Söngur—Karlakór.
    Eldgamla Ísafold
    God Save the King.

Þá fara fram kapphlaup fyrir börn, yngri en 14 ára að aldri.



*Kvöldskemtun.*

Karlakórið syngur þá mörg íslenzk lög.

Þá fer einnig fram glímusýning og ef til vill fleira.

Þrjú rafmagns- og ljósafélög hafa boðið nefndinni að láta fram fara skrautsýningu. Birtist þar í ljósadýrðinni hr. Paul Bardal söngvari, gyrtur megingjörðum, með Mjölnir í hendi og syngur kvæðið "Thor" eftir Longfellow, undir lagi Sveinbjörnssons.

Dansað verður frá kl. 10 til 12.

Faðir andanna, frelsi landanna,
ljós í lýðanna stríði,
send oss þitt frelsi,
synda slít helsi,
líkna stríðanda lýði.

Lýstu heimana, lífga geimana,
þerðu treganda tárin.
Leys oss frá illu,
Leið oss úr villu,
Lækna lifenda sárin.

Sælu njótandi, sverðin brjótandi
faðmist fjarlægir lýðir.
Guðríki drotni,
dauðans vald þrotni,
Komi kærleikans tíðir.

Faðir ljósanna, lífsins rósanna,
lýstu landinu kaldan.
Vertu oss fáum,
fátækum, smáum
líkn í lífsstríði alda.



Ó, blessa guð, vort feðra-frón,
Veit farsæld hvers kyns gæða.
Lát ekkert mæta mein né tjón;
Í miskunn lít á hverja bón,
sem hafin er til hæða.

Gjörn eindrægninnar öflug bönd;
leys ómenskunnar dróma:
Stýr barna þinna hjarta' og hönd;
lát hlíð og dal og sjávarströnd
af friði og frelsi ljóma.

Vort föðurland þér felum vér,
ó faðir allra þjóða.
Oss kræleiksleysi' og vantrú ver
Öll von er fest á einum þér,
sem gefur alt hið góða.

# Útlaginn

Frá útlagans heimi eg ávarpa þig,
Þú alþingis-móðirin kæra.
Með tíguleik andans þú töfraðir mig.
Af torfærum lífsins þú hófst á það stig,
Sem leiðir að ljósinu skæra.

Er miðalda gríman á mörkinni lá
Og mannkynið titraði' af kvíða,
Þú faldist, en hjarta þitt hætti' ekki' að slá;
Við hita þess kviknaði blysi því á,
Sem veifar nú fjallkonan fríða.

Og af því þú geymdir hinn sí-gilda seim,
Er sannfrjálsu hetjurnar fundu,
Þá sækja nú konungar heimsins þig heim,
Og hæverskir bíða' eftir skerfinum þeim,
Sem, örlát, þú miðlar úr mundu.

Og því munu börnin þín blessa þann dag,
Er brjóstin þín hófust úr sævi,
Og lifa því einu, sem eflir þinn hag,
Og einróma syngja þér hamingju-lag,
Sem hljómar um aldur og æfi.

Nú heimta eg aðeins þá hamingju-stund,
Þá hnígin er sól mín að viði,
Að fá þó að lokum að gista þá grund,
Er græðir til fulls mína saknaðar-und,
Og blunda við brjóst þín í friði.

—*P. B.*

# Minning Alþingishátíðarinnar

Sjá,—bjarmann upp af Íslands frægðarljóma!
Heyr,—ótal raddir þjóðarlofsöngs hljóma!
á þúsund-ára-aldar vegamótum
þar Úlfljóts-speki fyrstu náði rótum
og stjórnarlaga frum-meiðurinn forni
í frelsis skjóli greri á þjóðlífs morgni.

Á meðan okið aðrar þjóðir báru
og einvalds-drotna kúgun háðir váru,
í faðmi Íslands-fjalla—steinum runnu—
þess fjölvitsandar snildarverk sín unnu.
Þar fylgdust saman fyrirhyggja og speki
og framgjörn manndáð, studd af list og þreki

Á meðan ei var annar—þjóðum settur,
en ofstopanna grimmi hnefaréttur,
og hverjir aðra banaspjótum báru
og bál og sverð úr deilum manna skáru,
var lögum fest á landsins Glæsivöllum
það lýðvalds form, sem nú er dáð af öllum.

Og þar sem aðrar þjóðir héldu vera
alt þrotlaust haf,—um ekkert land að gera,
þar heila álfu Íslendingar fundu
—en auglýsingu neina þar við bundu
En, nú fyrst hefir heimur við það kannast,
og heiðurs afrek þeirra að fullu sannast.

Nú feðra andar, ávöxt starfa sinna
í aðdáun og virðing heimsins finna,
er svífa um leifar sinna fornu ranna
og sjá hinn mikla skara þúsundanna,
með lotning, er í unaðshrifning standa
við altari fyrsta þingvalds Norðurlanda.

Og stærstu þjóða stjórnvalds glæsimenni
þar standa og flytja sæmdar ávörp henni,
sem minst er sögð á meðal heimsins þjóða,
að manna tali og fjársöfnunar gróða,
en hélt þó vörð og helga eldsins gætti
er heimur kyngi myrkravalda sætti.

Og vér, sem fæddir Íslands niðjar erum
og enn þá feðra svip og mótið berum,
—þó dveljum hér—þess frama af hjarta fögnum
með fegins hlutdeild, bæði í ljóði og sögnum.
Á hugar sveiflum—heimaþjóð og landi
vor heilla skeyti berast óteljandi.

Þeim dularkrafti' er stöðu hnatta stillir
og storð og höf með lífræn efni fyllir,
vér felum Íslands framtíð alla daga,
sem fyrirmynd þess verði þjóðlífs saga.
Þar ríki eining, ást og list og friður
og alt, sem bezt að sannri farsæld styður.

*Þorskabítur.*



# Þjóðræknisfélag Islendinga í Vesturheimi,

árnar Íslendingadeginum og alþingisminningunni allra heilla.



TILGANGUR FÉLAGSINS ER:

*(a)* Að stuðla að því af fremsta megni, að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi;

*(b)* að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi, bæði með bókum og öðru, eftir því sem efni þess framast leyfa;

*(c)* að efla samúð og samvinnu millum Íslendinga vestan hafs og austan og kynna hérlendri þjóð hin beztu sérkenni þeirra.



Öllum Vestur-Íslendingum bjóðum vér að gjörast meðlimir í félagi voru á þessum grundvelli.



Í stjórnarnefnd félagsins eru:

*Séra Jónas A. Sigurdson*, forseti
*Séra Rúnólfur Marteinsson*, vara-forseti
*Séra Ragnar E. Kvaran*, skrifari
*P. S. Pálsson*, vara-skrifari
*Ólafur S. Thorgeirsson*, fjármálaritari
*Stefán Einarsson*, vara-fjármálaritari
*Árni Eggertson*, féhirðir
*Walter Jóhannson*, vara-féhirðir
*Carl Thorlakson*, skjalavörður.

Finnið einhvern þeirra að máli og tjáið þeim ósk yðar að gjörast meðlimir.

